er eru ecke hrëiner fyrer Honum / Hvad myklu framar er þa Madureñ þyrer honū andstyggelegur og þægeingelegur / sem dreckur j sig Ranglætid eins og Vatn?

Hvad er þa hier til Rada j soddañ Eymd og Deþnumi? Ecke añad eñ þetta / ad hver ein Madur jate / z medkieñe sijnar Synder / so sem ædur er sagt / og sturist þeirra aff ollu Hiarta / med Angre og Idran / og bidie Gud um̄ Nad og Fyrergiefning / og treyste ecki uppa Riettlæte sinna eigenlegra Verka / helldr uppa Nad og Mylldun Guds / ꝼ Arnan og Medalgøngu Grædarans IESV Christi. Eñ sie þad nockud gott / ad eirn eda añar hefur giort / eda kañ ad giora / þa seigium so sem Christur kieñer oss j Gudspiallenu / Vier erum onyter þræler / og giørdum þad eina vier æfttum ad giora. Og er þetta ꝥ fyrsta Stig eda Trappa til sañrar Idranar.

Añur Trappa ad þeckia og þiona Guds Reide.

Þar næst skal so Madur sem alvarlega vill Syndaña jdrast / riettelega ꝥ eckia Guds Re

 ide og

ide og Riettlætis Dóm̄i j giegn Syndunū og hafa j sijnu Hiarta og Samviskunni Otta Hrædslu og Skielfing vegna Guddoomleg rar Reide og Refsingar. Hvad nær þu hyr ar um̄ Syndena/ þa ættu þar jafnfram̄t m; /ad hyra um̄ hvad þu hefur forþient/ og forskulldad med Syndeñe/sem er eilijf ur Daude og eilijf Fyrerdæming/med oend anlegum ofeigianlegum Helvijtis Kvølum og Pijslum/ Þetta leider Syndeñ epter sier/og þetta fylger Syndeñe eins og Skuggenn Lijkamanum. Non nos finit Deus impuni ta habere Peccata, seiger Augustinus/ Gud lætur oß ecke hafa Syndernar O refsiar.

Þesse Kyñing Gudlegrar Reide og Ref singar fyrer Syndernar/kiemur og eirniñ af Løgmalsins Predikan/ þviad Løgmaled kieñer/ad Gud:e. Mis lijke allt Ogudlegt Fr amferde og Athæfe/og hñ sie eirn uppbreñ ande Elldur/og sterkur Vandlætare (sijns Løgmals) sem vitiar a Børnunum Illsku Fedrañа j þridia og fiorda Lid/Exod. 20. Og ad hrædelegt sie ad falla j lifanda Guds

Hendur/

Nendur/Hebr. 10. Hviad Elldur er kveik-
tur j hűs Grimd/sem brenna skal allt til hins
nedsta Helvitis/Deut. 32. Stormur Dr-
ottens mun koma med Grimd/og eitt hr-
ædelegur Hvirfilvindur sem falla mun yf-
er Høfud þeirra Oguðlegu/og hans Grimd
skal ecke lata af/fyrr en hun hefur giørt
og vtriett allt þad hann hefur j Sinne (mo-
te þeim Ohlydnu) Jerem. 23.

J sama Mata avitiar Løgmaaled oss/
hvilijka Refsing vier hefum forskulldad/
fyrst þad vier høfum syndgt Gud og brotid
af hans Bodordum/ þvi so stendur skrifad
Bølvadur er hann sem ecke uppfyller og hellt
dur allt þad j Løgmaalenu skrifad stendur/
Deut 27. Þad eru aller þeir sem ecke vei-
ta Løgmaalenu soddann Hlijdne fullkomlega
sem ad dur var umm talad/og þad ecki halldra
uppa minsta Punct og Prik/þeir eru Si-
undlega og Eilijflega Bølvader/og fra Gu-
de ræker og rekner. Grimd og Reide Guds
blijfur yfer þeim/oll Plaga og Pijna Ey-
md og Olucka sem j Heiminum er eda vefn-
ast kann/er fra Stundlegt Straff/og þeir

eru undergefner Diøfulsins Grimd/og Da-udans Vallde og Heimsins Kvølum og Pijslum ad eilifu. Þar fyrer skrifar svo S. Pall Rom. 4. Ad Løgmaled verkar ecke nema Reide/Hvad þad klagar yfer Synd-enne/og fordæmer hana/og bodar Guds Re-ide øllum þeim sem hana drygia.

Þetta er nu þad annad Stigid eda ønnur Trappan sem sa Synduge skal uppstiga/ad hann af Løgmalinu þecker og finnur Gu-ds Reide og Refsing/giefur sig Sekann og Skylldugann þar under/skielfest og hræd-est þess vegna / svo sem vier siaum David hefur giort/þar fyrer skulum vier aller se-gia med honum/Drottenn Straffa mig ec-ke j þinne Reidi / og refsa mier ecke j þinne Grimd. Drottenn hialpa mier/ þuiad eg er Veikur/Heilbrygdann giør þu mig Drottinn þuiad mijn Bein eru skialfandi/Psal. 6. Mitt Hiarta er Sorgbitid j mijnu Lijfe/ Daudans Hrædsla er fallinn yfer mig/Otte & Skielfing eru komin yfer mig/& Myrk-urinn hylia mig/Ps. 55. Jeg hrædest þig/so ad eg skielf a mijnum Beinum/ og eg er

hræddur

hræddur fyrer þinum Doome / Ps. 119.
Ad auk þessa ba eigū vier ad gufa Loff og Prijs Guds Riet.læte/og haus Aukfin gum/sem hañ leggur a oss/Mega þar eki a mooti/lyda þad Polinmoodlega/og eign ast Sæler vorar j Polinmædi og gefa oss alla Skulldena/og seigia med Ræningian um / Vid tokum makleg Giolld fyrer ockar Giordir/ Luc. 23. Og med Michea Spamañe/Jeg hef Syndgast/þui er mak ligt ad eg beri Reidi Drottins/Mich.7. Itm/mz David/Drottin/Riettlatur ertu og riettur og sañer eru þiner Doomar. Psalm. 11.

Pridia Trappa/ ad bera Angur og Tr ega Syndañа vegna.

J þridiu Grein skal sa sem giora vill ri etta Jdran/eki alleina jata og medkienna sinar Synder/ og kañast vid Guds Reide/ helldur og so eirniñ þar med syrgia og gr ata sinar Synder og Misgiörder/og giora sem Spamadurinñ Joel býdur/ad snua sier til Drottins af öllu Hiarta med Föstum/ med Grati og Harme/og sundursliita sitt

Hiarta/

Hiarta/en ecki sijn Klæde/Joel 2. Hviad lijka sem vier byrergiefum ogiarna þm oss hefur mykid a moote giørt/nema þviad eis nu han þykist ofgiørt hafa. So vill Gud ecke helldur byrergiefa nockrum Manne hns Synder / nema hn alvarliga og af Hiarta syrge og grate þad han hefur illa giørt/ ad þad angre han af øllu Hiarta med hvoriu han hefur forsied sig/og Gud til Reide reitt/svo sem Gud sialfur giefur þetta til Kyñingar hia Spamañinu Esa. 66. þar han seiger/Jeg lijt a hin Fatæka/ og til hans sem hefur sundurknosadan Anda/ og er hrædur byrer mijnu Ordi/ þad er/ Eg er Nadugur þm sin ecki stoolar uppa sialfan sig/helldur medkiener sin andligann Fatækdoom og sijnar stoorar Synder/og er þar byrer hryggur/skielfdur/ ꝛ hrædist þa Synda Hefsing og Reidi sm eg j mijnu Ordi læt tilsegia og boda vegna Syndaña. Fyrer þessa Grein syngur so Psalmaskalldid/Drottin er nalægur øllum þeim sm hafa hrygdarfullt Hiarta / og frelsar þa sin Sorgbitner eru j Huganu / Ps. 34

Hier

Her á moote seiger Postulin / ad Gud stan de j gégn þeim Dramblatu / 1. Pet. 5. Pad er / þeim sem eru stollter / Athugalauser og diarfer j þeirra Hreckvijsse / og jafnast hvorke j Hug nie Hiarta / ad þr hafa brotid af Guds Bodordū. Sijster jnna sier ecke / giora øngva riettra Jdran / þuiad sú Hrygd sem er af Gude / hun verkar Yfirboot og Jdran til Saluhialpar / 2. Cor. 7. Gudrækelig Hrygd (sem fyrr var umtalad) hun tilbyr Manninn / og kienntur honum til ad leita Raads og Hialpar j mote sine Synd og Eymd / so hañ skule ecke j þenne deya og fordiarfast eilijflega / Helld ur fyrer Truna a Jesum Christum / snwa sier til Guds / og bidia hañ um Naadena / eñ ecke Riettiñ. Hvar soddan Gudrækelegt Angur Syndaña vegna / temprad med Truñe ecke finst / þar kañ ecke helldur ad vera Jdran til Saluhialpar. Þar fyrer seiger so S. Bernhardus / Bonæ sunt Lacrymæ si Christum agnoscas, Grautur er goodur ef þu þecker Christum fyrer þinn Frelsara.

Eñ Veralldar Hrygd (seiger S. Páll

1. Cor. 7.) verkar Dauda / þvi hun er ecke añad eñ Hiartans Sorg og Samvitskuñar Pijst og Plaga / sem kiennur alleina af þvi Madur piñur med sier Syndena / ꝛ er skielfdur og hræddur fyrer Guds Reidi og Riettlætis Doome / og er Trwarlaus Nuggunarlaus og Veriulaus fyrer Diøflinum / og hans glooande Pijlum og Jñblæstre / og hefur øngva Huggun af Naad ꝛ Mysk.n Guds og Medalgangarans Jesu Christi / hv.r fyrer hañ ap Mistrauske og Orvilnan Moglar og Murrar j moote Gude / og endar sitt Lijf med eilijfum Dauda / eins og Cain og Saul / Achitophel / Judas og adrer fleyre Ogudleger Meñ giørt hafa / 1. Mos. 4. 1. Reg. 31. 2. Reg. 17. Matth. 27.

Ap þessu meigum vier sia og merkia / hvørsu stoor Greinarmunr ad er a mille Jdranar þeirra Ogudlegu og hiña Guds hræddu. Þeir Ogudlegu hapa øngva Trw nie Huggun j sinne Samvitsku Kvel og Angist / þeir Nugþesta ecke Guds oumrædilega Naad og Miskun / ecke Christi Endur

lausn nie Evangelij Fyrerheit/ þeir hura alleina um̃ synar storar Synder og Misgiørder/um̃ Guds Grimdar Reide j giegn Syndinne/ Logmalsins Bølvan/ og sijna Forþienta Refsing og Fyrerdæming/Hvar fyrer þeir falla j Anrvænting / og hafa breñande Natur til Guds /storma og stryda hønum j moote/og villdu helldur ad Gud være eingeñ/ cñ ad hañ skyllde refsa þeim/ og fara so j Helvijte og eilyfañ Dauda.

Soddañ Dæme finnast og eru skrifud um̃ marga Ogudlega einkum um̃ þañ Trwarnijding Julianum Keysara/ sem med grim̃legum Galenskap offsockte Guds Christne/z þa hañ fieck sitt Banasaar/tok hañ Blood ed j Lwfu siñe/hellte wt og sagde/ Vicisti Galilæe, Þu Galileare hefur uñed/hañ meinte Christum/kallande hañ Galileara/ af þvi ad hañ var af Nazareth. Þetta er nu su Jdraneñ sem kallast Metameleia, sem j Upphafe þessa Mals var um̃talad.

Eñ Guds Børn þau grææta med S. Petre/og idrast siña Synda alvarlega/hrædast og skielfast fyrer Guds Guddoomlegre

Reide/og hans Hefndar Refsingu/eñ hafa
þo øngva Efasemd a Guds Ilmd og Mis-
un / helldur hugga þau sig med sætlegum
Fyrerheitum N. Evangelij/og jnnfilya med
Truñe til Guds Nadar og Myskunar/ og
til Endurlausnarans JEsu Christi/og lei-
ta hia honum Lækningar vid Syndeñe/&
Huggunar j giegn þeirra Angist og Ski-
elfingu/og Hialpar og Endurlausnar gi-
egn þeirra Eymd og Neyd og eilifum Dau-
uda/ so sem vier lesum hia Spamanninum
Hosea um þa Gudhræddu/þar hvør talar
so til añars/Komid/vier vilium snwa apt-
ur til Drottens/ þvi hañ hefur sært oss/
hñ mun og Lækna oss aptur/hañ hefur sle-
iged oss/hañ mun og binda um vor Sar.

Vppa þessa þridiu Idran Troppu hli-
ootū vier ad Stiga/ef vier viliū rietta &
saña Idrā giøra/ & láta off af Hiarta ang-
ra/ og jlla þykia med Harme og Grate/ þ
vier hefum Gude a moote giørt/ svo sem
vier lesum ad David hefur giørt/ þar hañ
so talar um sitt Hiartans Angur / Jeg er
þreitter af Andvarpan/eg þvæ um Nat-

ur mijna Sæng / og med mijnum Tarum væte eg mitt Legurwm/ Psal. 6. Item Myskuna þu mier Drotten/ þviad eg kvelst Mitt Andlit er dapurt af Hrygd / þar ad auk mijn Sal og mitt Lijf/ Psalm. 31. Miñ Kraptur er nidurfalleñ ꝥ sökū miña Misgiørda / ꝛ mijn Bein eru Mattlaus vordeñ. So lesum vier uñ S. Petur/ ad hañ griet Beysklega þa hañ hafde efne„ ytad sijnum Lausnara/ Luc. 22. Sodd= añ Sorg og Angur hefur hapt su Bersynd uga Kviñan/vegna siña Synda/ad hun ꝥ v ode Fætur Christi med sijnum Tarum/ ꝛ þurkade þa med sijnū Hatrlockum/Luc. 7.

Eñ hier skulum vier vakta oss/ad vier j soddañ Angist fellum ecke j Mistraust eda Aurvænting med þeim Ozudlegu uñ Fyr ergiefning Syndanna / ad flya og fordast Gud so sem eirn stranganñ reidañ Domara helldur midt j vorre mestu Neyd og Sorg og Samvitskuñar Skielfingu/ snwum oss til Drottens Guds vors/med þvi vier erū fra hønum fallner /vegna Misgiørda vorra og vona a hann/þviad Myskun eg myk.l

Endurlausn er hia hønum/ Nose.14. Og hugga oss j Trwne þar med/ad Jesus Christus er kominn til ad giøra alla Synduga Saluhoolpna/ 1. Tim. 1. Og vera j full vissre Von um̃ þad/ ad þyrer hans Blood høfum vier Endurlausnena/sem er Synd aña Fyrergiefning/Ephes. 1. Hvíad/ad ør vænta sier Guds Myskunar er hin stærsta Synd af øllum Syndum/ Og þvi hefur S. Hieronymus riettelega skrifad um̃ Judam/Plus Peccavit Desperatione qvam proditione, Hañ Syndgade meir med siñe Aurvæntingu/eñ med þvi þo hañ svike siñ Meystara.

## Fioorda Trappa / Hatur og Heipt til Syndareñar.

Nu fylger epter hin fioorda Trappan sem Syndugur Madur a upp ad stijga/þeg ar hañ hefur nu feinged j sitt Hiarta riett sannarlegt Angur og rietta Jdran Syndaña/þar verkar þa heilagur Ande j Mañenum/ad hañ fær Natur og Andstygd til Syndareñar/og tekur til ad fordast hana so sem añañ Hoggorm/og hugsar/ef hñ yrde nu laus

nu laus vid hana/þa skylldi hañ alldrei dr-
ygia hana optar/ Og a þessa Tröppu hlÿt
ur hvør Christiñ Madur ad stiga/ sa sem
vill verda Saluhólpiñ/ z riettelega jdrast
Syndanna/ Þviad j þessum eina Hlut er
komeñ Mismunur j mille þeirra hiña Gud
hræddu og Ogudlegu/ a mille S. Peturs
Jdranar og Svikarans Judæ Jdranar.
Judas z þeir Ogudlegu haþa ad søñu Ang
ur z Jdran epter Syndina giørda/og þiña
Bruña Gudlegr "Grimd" Reide j Hiartanu
so gieck þ þm auma Judæ/þa hann sagde/
Illa hef eg giørt ad eg sveik saklaust Bl-
ood/eñ þetta vantar þa/ad slÿkt er ecke gi-
ørt vegna þess ad Synden er slæm og svi-
virdeleg / ecke helldur fyrer þad ad þeir
haþe stoort Natur eda mykla Andstygd a
heñe/eda ad þeim mislÿke þad so miøg/ ad
þeir haþe Gud stygt og moodgad/ Helldur
skiedur þetta þar fyrer / ad þeir kvÿda vid
Guds grimdar Reide og Refsingu sem yf-
er þeim hanger vegna giørdra Glæpa.

Eñ S. Petur z Guds Børn/jdrast ad
søñu/ad þau hafa syndgast/ecke ad þau hræ

est so miøg Guds Hefnd og Reide/helldur hafa þau Angur af þvi/ad þau hafa syngt og moodgad sin̄ Himneska gooda Fødur/& so skam̄arlega broted af hus heilegu Bod ordum / og af þvi ad Synden er þræl og slæm j sier sialfre/þa hafa þr Natur/And styggd og Leida a hen̄e / og hyta ad drygia hana alldrei optar/seigiande med Vijsenda Man̄enu Seneca/ þo eg visse (sagde han̄) ad Gud munde alldrei straffa Syndera/ska vil eg þo ecke syndga/ vegna þess ad Synden er j sialfu sier so stoorlega þræl og Andstyggeleg. Þetta talade Heidin̄ Madur/ Hvad ættum vier christner Menn þa ad hyta? Slijkt meinar og S. Paall þar han̄ seiger/Rom. 6. Þegar þier vorud Þrælar Syndaren̄ar/hvørn Avøxst høfdu þier j þan̄ Tijma? (nema þan̄) af hvørium þier nu skameist ydar. J hvørium Ordum þann kien̄er oss ad avallt hafa Gudhrædder Men̄ alvarlegt Natur & Andstygd a Synd enne nær þeir riettelega snwa sier til Guds so þeir skamast sijn og hafa Kinnroda j sijnu Hiarta Syndaren̄ar vegna/so hun verdur

þeim

þeim hvimleid. Þetta styrker og sta' fester Jeremias/þar hañ so strifar J 31. Þegar eg snera mier (til Guds) þa betrate eg mig og þa eg þieck Vited/huellt eg ad mijnum Lendum/Þad er ad skilia/Soddañ Kvøl ꝛ Pijnu heþ eg vegna minna umlideña Synda/ svo sem Kviñañ hefur j sijnum Barnburde/þvi eg er ad Skom ordiñ/ og stend Raudur af Kinnroda/ þvi eg hlijt ad lijda Nadungar mijns Ungdooms. Med sodd añ hætte skamadest Manasses Kongur sijn Syndaña vegna/ þa hañ sagde/ Ecke er eg verdugur ad upplypta mijnum Augum til Himens/vegna miña Synda. So lesū vier lijka um Tollheimtumañeñ/hann stood ytst vid Dyr/skamadest sijn ad ganga jñarlega j Mustered/og ei þorde hñ ad upplyp ta sijnum Augum til Himens/hellldur barde hañ sier a Brioost og sagde/Gud vere mi er Syndugum Lijknsami. Daniel seiger/ Drottiñ þu ert Riettlætur/Eñ vær meigū skamast vor. Dan. 9.

Soddañ Dæme eru noog j heilagre Ritningu/hvørium vier Christner Meñ eigū

ad fylgia/so framt vier vilium verda Sæ luholpner/Eñ Gud nade z betre/þar þiñ ast allmarger (þvi midur) sem Syndga a moote þessare þridiu og fiordu Grein/ sem bioda oss ad jdrast og syrgia af Hiarta/og græta vorar Misgiörder / og hafa Natur z Leida a þeim. Þviad nu er svo komed/ad flester Meñ þiña ei til siña Synda/giöra sier øngva Samvitsku/ eru Hyrdulauser/Athugalauser / eru Framande og længt fiærlæger þeim Lifnade og þvi Framferde sem er af Gude/giefande sig j Lausung og Lætgiæde Ogudlegt/ hafa brend Mørk a sijnum Samvitskum/eru odugan leger og ohæfeleger til allra goodra Verka Ephes. 4. Og giöra þar fyrer øngva Jdran/hafa hvørke Angur nie Jdran j siñu Hiørtum. Stundum/mæ skie/ þr jate þ med Muñnenum/ og sijne a sier Jdranarmark ad Yferbarpe / til ad skreyffa Guds Ords Þienara/og ad locka af þm̃ Aflausñ og Sacramentum/eñ jafnsnart þad er fenged/þa fara þeir eins og S. Petur skrifar um̃ Svijn og Hunda / slijkum stodat

Aflausn

Aflausu og Sacramentum ecke par/þad er þeim til eilijfrar Fyrerdæmingar. Hviad allra Maña Giørder eru fyrer Gude opnar seiger Syrach/ og þar er eckert huled fyrer hans Augum/Syr. 40. Nañ sier allt fra Veralldareñar Upphafe og Veralldareñar Enda/ Job. 13. Þar fyrer munu aller Nrœsnarar/og aller þeir sem fra hönum rijkia/fyrerfarast. Nañ mun eydeleggia alla þa sem Nooraner drygia hem m j moote/ Psalm. 73.

Þar fiñast og þeir sem grata og syrgia/eñ þad er ecke af riettu Niarta/þeir har ma og syrgia/þ Straff/þa Kvøl/ og Pijnu sem a þeim liggur/eñ ecke hvørt Efne/ hver Ordsøk/þar er til/Þeir fara ecke olijka sem Dreingerner þr ed seigia fra siñe Refsingu/ eñ ecke hvad þeir hafa uñed til/ og ei huxa þeir um̃ hvørneñ þeir meige þadañ j fra Syndernar fordast/so sem ædur var ahrært/þa talad var um̃ Angur og Jdran þeirra Oguidlegu. Med þessum hætte ge ingur þad til j Neimenum/þegar Gud straffar nockurt Land eda Stad/med Ofrid-

ar Storme/Hallære/Drepsoott/edur ødrū Stoorplagum/og tekur þa j burt sem vier villdum giarnañ leingur hefde lifad/þa veit hver Madur ad klaga sijna Sorg og Neyd med Ope og Ylbran og grætande Tarum/eñ hvar fyrer Gud leggur a slijka Refsing/þar hyra ecke marger um̄/ þeir þo værre sem þar af medkieña sijnar Synder/ og Guds Riettlætis Doom/og læta sier þyr er j þykia/ad þeir hafa styggt Gud med sijnum Syndum / hiner bæster sem þar fyrer hata Syndena og leggia hana af/og hyra um̄ hvørneñ þeir meige hana fordast og flya/og þioona Gude j heilagleika og Riett læte alla sijna Daga/so Gude lijke. Þar ꝥ̄ Fleyter Gud ecke par um̄ soddañ Sorg og Neygd/Graat & Veinan/acktar þad allt ad øngvu. Item hn̄ vill ad vier skulum sundurslijta vort Hiarta/þad er/ Ad hafa Angur og Trega Sorg og Graat vegna vorra Synda/og hyra ecke alleinasta um̄ Refsingena/hvad a oss liggur / helldur og svo um̄ Andstygd Syndareñar/ hvar med vier høfū vanheidrad og styggt Gud/og forþient þar

med eilijfa

med eilyfa Reide og Refsing. Af soddan Huxan kiemur pad/ad Madur asetur sier ad flya og fordast Last z Skam/Ja ad vüsu/ Hiartad skielfest og pvi ognar j hvørt sinn pa Madur huxar og minist a umlidnar Syn der og Misgiørder.

Eñ uppa pad ad eingiñ drage sig sialfur a Talar/ pa ma Madur reina og vita af sialfum sier/hvørt hañ hefur riett Angur og Sorg og Jdran vegna siña Synda og Misgiørda/ eda ecke. Hafer pu Lyst af Syndeñe/ og ef hun er pier kiær / og pu hefur Glede og Gaman af pvi ad pu giører pad jllt er /pa er pad fullt og cllt Teikn og Merke/ad pyn Jdran er ecke søñ/og pitt Angur er ecke af Gude til Saluhialpar / Eñ ef pu kant ad falla af Veikleika pyns Holldsog pu forsier pig vid Gud/ og pu finur jafnsnart pyna Synd/og pad angrar pig af Hiarta/ad pu hefur styggt og moodgad piñ Himneska Skapara og Endurlausnara/z hef sundurknosad Hiarta/ hvørt ad er sü Foorn/ Gud ecke forsmaar/ pa er pyn Jdrañ rietteleg. Pvi seiger Augustinus

ett/Non Nocent peccata præterita, si futura non placent, Umliđnar Synd' skada Menn ecke/ef þr hafa ecke þocknan a þeim ogiorđu. Item/þar er eingen Hlutur af hv oriumm þu mætt betur sia ađ vita hvort þijn Jdran er riett eđa ei/en Natur til Synd, areñar/en elska til Guđs/þegar þijnu Jdranar tangre er so hattađ/ađ Synden mis lijkar þier illa j Hiartanu / og hun er nu vorđin þier svr og beysk/sem ađur vat þi er sæt/Og þađ sem þu hafđer Lyst af j Lijkamanum/ þ er nu Saluñe þiñe beyskt & ramt/þa jdrast þu riettelega Syndaña.

Eñ soddañ Natur til Syndareñar kiem, ur af þvi/fyrst/ef þu jduglega & af Hiarta biđur Guđ med David og seiger/Ps. 51 Skapa þu Drottiñ j mier eitt hreint Hiarta/og gief mier nyañ Anda/Kasta mier ecke fra Auglite þijnu / og tak ecke þiñ heilaga Anda fra mier. Item/Vijsa mier Drottiñ þijna Vegu/ ađ eg meige ganga j þijnum Sañleika / varđveittu Hiarta mitt viđ þeina ađ eg Ottist þitt Nafn/Ps. 86.

Þar næst/ef þu hugar um̃ og yfirveg-

ar grand-

at grandvarlega/hvørsu margt jllt ad Syn deñe fylger/ og hvad hun leider epter sig/ þa merker þu vel hvad obæranlegañ Skada hun giører bæde Sælu og Lijkama. Og þad mattu sia og læra af þessum Gudrækelegs Mañs Heilrædum sem epterfylgia/ hñ kiende so Bernum sijnum.

Mitt Barn syndga þu ecke.

Hvi ad

1. Gud sier þad/og hañ styggest þar vid/ og hñ vill þess Hefna/Syr. 17. Ps. 139. Ps. 5. 2. Mos. 20.

2. Þu Footredur Christi Blod/ Heb. 10

3. Þu stygger heilagañ Anda vor i þinu Hiarta/Sap. 1. 1. Reg. 16. Jud. 16.

4. Þu hrygger/ z gra þier rekur þinn Vardhallds Eingel/Luc. 15. 2. Mos. 23

5. Sathan gledst og fagnar/ad þu/ sem ert skapadur epter Guds Mynd/villt helld ur hlyda og þioona Dioflenum enn Gude/ Ephes. 2. Luc. 11. Apoc. 12. 1. Pet. 5 2. Cor. 4.

6. Þu samteinger þig vid Diofuliñ/ert ꝥ hønum/ og blyfur hans/ og ert Præll

Syndariñar

Syndaremnar/1. Joh. 3. 2. Pet. 2.
7. Þu sa..ruga giører þijna Samvitsku
og hun klagar þig og nagar/Ps. 11. Rom.
2. Neh. 10.
8. Guds Løgmaal bølvar þier og fordæ-
mer þig/5. Mos. 27. Rom. 3.
9. Þu hindrar þijna Bæn/so hun bæn-
heyrest ecke/Es. 1. Syr. 35. Matth. 5.
Joh. 9.
10. Þu hneyxlar þiñ samchristinn Na-
unga/Matth. 18. Rom. 14.
11. Þu stygger þiñ Vin/so hañ klagar þ
þ Gude/Matth. 5. 18. Syr. 35. Neh. 13
12. Þu gledur þiñ Ovin/Syr. 28. 23
Proverb. 17. 24.
13. Þu misser þitt gott Nafn og Rykte
og leider Last og Skam yfer þig og þijna/
Syr. 23. Book Spek. 4. Daniel. 2.
1. Mos. 2.
14. Dauðeñ er þier vijs eñ Dauðastund-
en ovijs. Predik. 6. Matth. 24. Pro-
verb. 27.
15. Helvijte pijner þig eilijfum Helvijtis
um Kvølum og Pijslum / og sa nagande

Samvitsk-

Samvitskunar Ormur sem alldrei deyr/ Matth. 18. 25. Mar. 6. Esa. 66. Openb. 14.20. 21. Luc. 16.

Þessar puntan Heilræda Greiner ættu med riettu ad ǽminna z uppvekia hvers Christens Mans Hiarta til ad forðast Syndena/og ad syrgia og grǽta med sanre Idran/ep vier syndgum/ z flya hana og fordast so sem þan andstygg elegasta og skadsemlegasta Hlut/ sem j Hel slær og fordiarfar bæde Sal og Lyf.

Meira verdur hier ecke ad sine skrifad um þan fyrsta Part Idranarennar og þa fiora Hlute sem henne tilheyra/z ættid gǽnga un dan Trwne/ sem er Ad þeckia syna Synd og medkienna hana. Þar næst/ad jata og vidurkienna Guds Rietlætis Reide z Syndanna Straff og Refsing/Og hrædast Guds Hefndar Reide/ med sanre Samvitskunnar Skielfingu Otta og Hrædslu/ Hafa Augur og Hrygd / Hatur og Andstygd til Syndarennar. Af hvoriu ollu vier meigum sia og skynia vora Synd og Neyd og Plagu / og verda æminter ad leita Hialpar ꝛc.

Eckma Nadareñar hia Gude/ j Nafne Je su Christi vors Endurlausnara/ hvad allein a skiedr þ rietta saña stadfasta Trw til hñs nær þar ꝛ mÿskunar/ hv^r um nu sk talad verda.

# Annar Partur Jdranarennar/ Sem er TRWEN.

Añar Partur/ j hvoriu sōn og Christeleg Jdran er komen/ er Trwen/ hvør ad er sōñ Kyñing Guds Nadarsamlegra Fyrerheita/ og Lausnarans JEsu Christi/ so ad Madur sainþycker þad hañ veit / og giefur þvi Magt og gyrnest j sijnu Hiarta ad verda N. üttakāde ꝛ nioótande Guds Fyrerheita/ og Velgierninganna JESV Christi/ þar med eitt stadfastleg Huggun og Trwnadar trauſt sem sig þorlætur uppa Gud/ ad hann mune epter sijnū Fyrerheitum/ fyrer Son ar sijns Skulld af skiærre Nad og Myskun an allrar Verdskulldunar Mannlegra Verka/ vera Nadugur og Myskunsamur/ fyrergiefa Syndernar/ og giefa eilijfft Lijf/ hvar af ad kviknar og kemur Glede og Føg nudur j Mañsins Hiarta og Samvitsku/ og haf

og hñ aß ollu Hiarta/allre Alvoru/Asetur sier ad verä Gude Packlætur/og þwona hø num og lifa epter hans Vilia alla sijna Lijf daga / med einu Orde ad seigia/ Trwen er full og føst Hiartans Huggun og Trwnad artraust til Guds Myskunar/hvar med vi er eignum oss / og ad oss tøkum allt gott/ pad Gud hefur oss lofad j sijnum Fyrerheit um/so vier treystum þullkomlega þar uppa ad vier høßum Endurlausn j Christo Guds Syne/ þyrer hans Blood/ sem er Fyrergießning Syndaña/ epter Rijkdoome hñs Nadar /og ad øll Fyrerheit Guds sie Jaa og Amen j JEsu Christo/Ephes. 1. Coloss. 1. 2. Cor. 1.

Aan þessarar Trwar gillder ecke par sa þyrste Partur Jdranareñar til Saaluhialp areñar/sem nu er umtalad/þviad lijka so siñ þad stodar þeim siwka eda saara eckert til siñ ar Heilsu eda Heilbrygde/ þo hañ þiñe siñ Siwkdoom/haße Svida og Verke/utann hañ vite Raad og Lækning/ og hañ brwke Lækningena og take hana til sijn/ ellegar er hañ fordiarßadur og hlijtur ad deya / Eins

er hættad þeim Synduga. Þad er ecke noog ad jata og medgannga synar Synder skielþast og hrædast Guds Riettlætis Reide Syndaña vegna / hafa Natur og Andsygd a giørdum Glæpum / utañ so sie ad hñ afs E-vã gelio vite hvada Rad sie i moote Synd unum / og med stadþostu Trwnadartrauste take þad Rad til syn og sier til Eignar / so hañ fae þar af Glude og Huggun / ellegar hlÿtur hañ ad verda eilÿflega þordæmdur / so sem Christur seiger / hvør sem ecke trwer sa skal verda fordæmdur / Marc. 16.

Nu skulum vier hugleida / ad þesse Trw en sem nu tølum vier uñ / hun hefr synar Proprietates (þad kellum vier) Art eda Egund / j hvørium hun er þoolgeñ / med synum Avøxtum / sem koma af Trwñe / af hvøriu hvør og eirn Madur kañ sig ad pr oþa og reina (so sem Postuleñ Radleggur 2. Cor. 13.) hvert hañ er j Trwñe eda ec ke. Eñ Art og Edle Trwareñar er þalid j þim Hlutum / sem er 1. Andleg Kynning Christi og Guds Radar og Myskinar / og haus Fyrerheita / 2. Samþycke Mañsins

þegar

þegar hn̄ giefur þvi Magt sem hn̄ j Guds Orde heyrer / og veit þad satt vera. 3. Hiartans Grund ꝛ Forleinging epter þvi sama. 4. Eitt vissulegt Truaadartraust / uppa þad sama / sem Hiartad gyrnist. 5. Averter Truarennar / sem hen̄e fylgia / um̄ hvoria seirna skal talad verda / þviad j þessu Maale vijsast oss ecke alleinasta Himmesk og andleg Naad / Heilsubeot og Lækning giegn vorum Syndum / Reide Guds og Lögmaals sins Bølvan / og eilijfre Fyrerdæmingu / Sorg og Skielfing Hiartans / sem adur var um̄talad / helldur er T Ruen svo sem Tool og Verkfære / og lijka so sem ein Purs famans Hønd / sem tekur vid þeirre Aulmusu er þeim Fatæku verdur giefin̄ / eins tøkum vier med Trun̄e / vid Guds Nadar Gaaf̄u og Lækningum / og hefum þær oss til Gagns ꝛ gooda / og andlegrar eilijflegrar Heilsubootar.

I.

Fyrst er Truen komen j saan̄re og audlegre Kyn̄ingu Christi / ꝛ Nadar og Myskunar Guds / sem oss j honum og fyrer hann

er tilsögd og þyrerheiten / hvoria Kyning Men þar af Guds heilaga Orde og Evangelio / þyrer Verkan hins Helga Anda. Hviad Evangelium kiener oss ad Drottenn sie ollum goodur / og ad hans Myskun gan ge yþer oll hns Verk / Psalm. 145. Item Hvar Synden yfergnæþer / þar yfergnæþer Naden meir / Rom. 5. So han vill ad eing en skule portapast / helldur ad aller snwe siet til Jdranar / verde Saluhoolpner og þæe saña Kynning a Sanleikanum / 1. Tim. 2. Oz ad Gud haþe þess vegna so elskad Heim en / ad han sende sinn eingetin Son til ad verda Forlikunar Offur þyrer vorar Syn der / uppa þad ad aller þeir sem trwa a han skule ecke þyrerfarast / helldur haþa eilyst Lyf / Joh. 3. & 4.

Þar næst kiener Evangelium oss ad þeck ia Persoonu þessa Guds Sonar og Arnadarmans / hans Embætte og Nytsemd til Aumra syndugra Maña. Hviad um ha ns Persoonu talar so Evangelium.

1. Ad han sie sañur Gud yþer ollum Hlutum / og Dyrdarlioome sijns Fodurs / og eig

enleg Mynd

eilleg Mynd hans Veru/bæddur af Fødurs
sins Hiarta fyrer alla Eilijfd/og þui sie hñ
eingeñ Nlutur Omøgulegur/helldur ad hñ
kuñe yperfliootanlega ad veita og gieþa alla
Nlute framar eñ vier bidium eda skilium/
Rom. 9. Hebr. 1. Luc. 1. Ephes. 3.
2. Þar næst kieñer Evangelium/ ad þa
Uppfylling Tijmaña var komenn/sie hañ
bæddur af Kvinu/Gal. 4. sannur Madr/
lijkur sijnum Brædrum j øllu/þo Syndlaus.
uppa þad ad hañ skule vera Myskunsamur
og trwlyndur Biskup hia Gude/ad forlijka
Foolksins Synder/Heb. 2. 7. Nvar af vi
er meigum endelega ælykta/ad hañ vill full
komlega hialpa oss/mz þui hñ er vor Brod
er/z vier erū Limer hñs Lijkama Holld af
hñs Holldi z Bein af hñs Beinū Ephe. 5.
3. Item kieñer oss Evangelium/ ad hñ er
eirn Christur/ Messias/ eiñ Persona/ þo
hañ sie Gud og Madur/hafande saña Gud
domlega Natturu. og so lijka sanna Mann
doomlega Natturu/þviad so sm̄ Augustin
us skrifar/Filius Dei habet hominem tan-
qvam anima corpus, Sicut enim Anima

habens corpus non facit duas personas, ſed unum Hominem, ſic Verbum habens hominem non facit duas Perſonas, ſed unum Chriſtum, Þad er / Sonur Guds hefur Mañeñ (eda Mañlega Natturu) lijka ſem Saalen hefur Lijkamañ / Þviad lijka ſem Saalen hafande Lijkamañ / giører ecke tvær Perſoonur / helldur eirn Mañ / Svo giører og DROTTEN (Guds Sonur) ſem hefur Mañdoomlega Natturu / ecke tvær Perſonur / helldur eirn Chriſtum. Hvar af vier endelega alyktum og holldum / ad allt hvad hn̄ hefur i Holldenu lided eda giørt vorra vegna / ꝛ oſſ til Endurlãſnar / þ er allt Dum̃rædelegt Oſeigiãlega / Oendãlega ꝛc eilijflega Dyrmætt / ꝛ þᵛ ꝥ nooglega kroptugt til ad giøra oſſ eilijflega Saaluhoolpna / og alla Meñ i Heimenum (ef aller villdu þad þyggia) med þvi þad er ein eilijf / oendanleg / oumrædeleg Perſona / ſem fyrer vora Skulld hefur giørt Boot og Betaling fyrer Syndernar / og fyrer oſſ hefur lided Pijnu og Dauda.

II.

Um̃ hans Embætte kieñer oſſ Evangelium þad

liñ þad / ad hañ er Messias eda Christus / þad er smurdr Drottens / eda af Drottne / eirn Kongur / Spamadur / og ypparste Kiennemadur epter Ordum og Skickan Melchisedech / Hebr. 4. Og eirn JEsus / þad er Gud og Frelsare / sem frelsar sitt Foolk fra þess Syndum / og Saluholpna giører þa sem kynder og tapader voru / Matth. 1. 18. Þvi ecke sende Gud sinn Son j Heimenn / ad hañ skyllde dæma Heimeñ / helldur ad Heimurenn skyllde verda Saluholpenn fyrer hañ / Johann. 3. Capitula.

III.

Vm̃ hans Aſtarþel vid Fatæka Syndara talar og so Evangelium / og seiger þad sie lijka eins sem hans Embætte / so ad hann hefur øngva Þocknan a nockurs Syndugs Mans Dauda / helldur vill hañ ad hiñ Synduge snwe sier fra sijnu jllu Framferde / þad er / giøre Jdran og Yfferboot / og trwe a hañ / og life / þad er / fae Syndaña Fyrergefning / Riettlæted og eilijfa Saluhialp.

Þviad hann seiger so sialfur / Matth. 11. Komed til miñ aller / aller sem Erfided og

erud af Hunga (Syndaña) þiader og þre-
itter/eg skal Endurlijsga ydur. Item/þet-
ta er hans Vilie sem mig sende/ad hvør sin̄
sier (þad er) þecker/ Soneñ og truer a hn̄
sa skal hafa eilijft Lijf / og eg skal (seiger
Christur) uppvekia hann a sijdasta Deige/
Joh. 6. Þessa Hiarta Giæsku hefur han̄
nooglega læted j lioose med Giørningenum
ad han̄ hefur alldrei fra sier reked nockurn
þan̄ sem til hans er kominn/ Og alldrei er
nockur til skam̄ar orden̄ sa sem Von sijna
hefur sett til hans/eda orded af honum for-
smadur/sa sem hn̄ hefur akallad/Syr. 2.
Ad þeckia med þessum hætte Guds My-
sturiseme og Herrans Jesu Christi Persoo-
nu/Embætte og Hiartans Þel/þad er ma-
lijka sem eitt Himneskt Sæde / af hvoriu
DRDen verdi fyrer Krapt og Verkan hei-
lags Anda/j Hiartanu gieten / og vijsar oss
ad Lækningu og Hialp j moote Syndenne
og øllum Eymdum vorum j Jesu Christo/
sem gaf sialfan̄ sig ut fyrer vorar Synd-
er/so ad han̄ frelsade oss j fra þessare vond-
re nalægre Verølldu/ og ad vier skylldum
hafa

hafa Lijfed fyrer Trwna j hans Nafne/ z fyrer hans Naad verda Riettlaater og Erf=ingiar eilijfs Lijfs epter Voneñe/ Gal. 1. Joh. 20. Tit. 3.

Pvi eingeñ kañ ad trwa pvi sem hñ veit ecke af/ og ecke helldur ad setia Traust sitt a pañ sem hñ pecker ecke. Par fyrer kañ eingeñ ad trua Gude j hñs Ordum og Fyrerheitum/ nema hñ peckie Gud riettelega z vite hvad hañ hefur lofad./ Ei helldur kañ nockur ad forlaata sig uppa Herrañ Christum/ nema hañ pecke hans Persoonu hans Embætte/ Myskunargiæsku/ sem er ouñireedeleg/ epter pvi sem David seiger/ Psalm. 9. Peir vona a pig s pekia pitt Nafn. Og sialfur Christur talar so Joh. 17. Petta er eilijft Lijf ad peckia pig alleina ad vera sañañ Gud/ og Jesum Christū pañ pu wtsender/ ad vera Christū. Par fyrer seiger Postuleñ/ Rom. 10. Hvorneñ skulu peir trwa a hañ/ af hverium peir hafa eckert heyrt? Og hvorneñ eiga peir ad heyra nema Predikad sie? Paneñ kemur Trunen af Predikuneñe eda Heyrneñe/ eñ Heyrneñ af Guds Orde.

Par-

Þar næst er Trwen þolin/In assensu, Þad er j Sampyckinu/ ad Madur Sampycke þad sem han̄ so þecker og veit/ þviad þegar Madur hefur san̄a Kyn̄ing a þessu s nu hefur vered sagt/ og veit þad vel / og hugsar so alvarlega þar um̄/ þa kvikuar med hönum þyrer Krapt og Verkan heilags Anda sierleg Næring/ so vier þin̄um j Niartanu/ad vier ecke alleinasta verdum Sampycker þvi/sem vier vitum og truum/ og giesum Magt öllum Guds Ordum/ad þau sieu sön̄/en̄ sierdeilis þvi heilaga Evangelio um̄ Guds nadarsamleg Fyrerheit/og þ vier vitum um̄ Christi Persoonu/hns Embætte z Niartans Giæsku til aumra syndugra Man̄a/ hvad allt vier þin̄um ad vera kroptugt j vorum Niartans Rootum/so ad vier hyþum önguan̄ Efa a Guds Ordum/ helldur truum vissulega / ad Ord Guds er San̄leikur og hvad han̄ seiger/þad skiedur so/og hvad han̄ byidur/þad verdur. Þetta Sampycke er til ad jafna/so sem Natturleg ur Nite og Vermer/hvar af Sæded Guds Ords sem j Niartanu er gieted / kvikuar lifnar og endurnærest.

3. J þrid

3. I þridia Maata er Trwen ꝧalen j ſijre Hiartans Hyrnd og Aſtundan / hvoria heilagur Ande uppvekur aꝧ ꝍdurneꝧndre Kyñingu/um Myſkun Guds og Herrann JEſum Chriſtum og hans Velgiørninga j Hiartanu/ſo vier af øllu Hiarta gyrnunſt ad faa og ødlaſt meir og meir þa Naad Guds ſem hñ hefur loꝧad og ꝧyrerheited oſſ j Evangelio/og Herrans Chriſti Velgiørninga/Og ad vier mættum faa og ødlaſt fyrer hañ Syndaña Fyrergieꝧning/Naad Guds og Vinattu/Riettlæted og eilyfa Saaluhialp. Og þar med uppa adra Sijdu leyſaſt og ꝧrelſaſt ꝧra Reide Guds/Legmaalſins Bølvan/Daudanum/Dieflenũ og Helvijte og øllum Eymdum og Hørmungum. Soddañ Hiartans Forleinging ⁊ breñande Hyrnd ſkaaum vier j Dæme Davids / þar hañ ſeiger/Pſal. 63. Myña Saal þyrſter epter þier/j þurru og hriooſtugu Lande/ þar eckert Vatn er. Item/ Lijka ſem Hiorteñ langar epter ferſku Vatne/ſo langar myña Saal epter þier Drotteñ. Myña Saal þyrſter epter Gude/epter þeim lifanda

Gude/hvønær mun eg þangad koma ad sia Guds Andlit, Psal. 42. Item/ Jeg bijd epter Drottne/mijn Saal bijdur / og jeg vona uppa hans Ord. Mijn Saal bijdur Drottens j fra eirne Morgunvøkuñe til annrar/ Psalm. 130. Item/ Jeg hef kallad mig Moodañ/svo ad eg er hæs ordeñ j mijnum Kverkum/ Sijnen mijnkar/af þvi eg bijd so leinge epter mijnum Gude/ Psalm. 69.

Soddañ breñande Hiartans Gyrnd sem so grætur og þyrster og laungar epter Guds Nad og Velgiørningum/er lijka so sañ Gietnadr Trwareñar j Hiartanu/hvar fyrer S. Augustinus seiger svo/ Desiderare Auxilium Gratiæ, Initium est Salutis. Ad gyrnast Guds Nadar Hialp/þ. er Upphaf til Saluhialparennar.

Lijka eins sem Bloodfallssiuka Kvinnan/ hafde stoora Astundan og Gyrnd ad snerta Klæden Christi og verda Heilbrygd/Mar. 5. So eigū vier af ollu Hiarta ad laata off lannga epter Guds Nad/og gyrnast Jesu Christi Velgiørninga niotande ad verda/

og frels

og frelsast fra Syndunum og þeirra Forþientre Refsingu.

Pad fyrsta tvent sem adur var umtalad sem er ad vita af Guds Orde og hanns Fyrerheitum / og trwa ad þad sie satt sem skrifad stendr j Gudspiallegre Historiu um̄ Christum / þad er oss sameigenlegt med þm̄ Ogudlegu / Ja / iafnvel med Dioflunū / um̄ hveria S. Jacob skrifar / ad þeir trwe og skielfast. Eñ þad Trwnadartraustid og su Hiartans Grund og Forleitning til Guds Nadar og siñar Saaluhialpar (um̄ hveria adur var talad) ad hun sie svo sem Grundvollur Trwareñar j Mañsins Hiarta / Pad giorer Mismun a mille frar riettu Trwareñar sem oss Saaluholpna giorer / og hiñar sem þeir Ogudlegu og Dioflarner hafa. Peir trwa þad sie satt sem j Guds Orde stendur skrifad / leingra kiemst þeirra Trw ecke / geingur þeim ecke til Hiartans / hafa hvorke Trw nie Traust / og ecke nockra lifande Grund til Guds Nadar og Myskunar / epter Hlioodan hn̄s Orda. Peir sia og medkieña / ad Guds Ord og Fyrerheit sie soñ /

it sie søñ/epter þvi sem Ordeñ hlijda og Hi
storian/Alijka so sem vier trwum eina eda
adra Frasøgu ad vera saña/hvøria vier les
um/ Eñ þeir hallda þad kome ecke vid sijna
Persoonu/ trwa hvørke nie samþyckia/ ad
Gud vilie giefa þad hñ j Ordenu lofar og
Fyrerheiter/ og veita þeim Naad og My
skun/ so sem þeir Utvøldu trua og treysta.

IV.

J fioorda Mata er Trwen saleñ j obrygd
anlegu Hiartans Trwnadartrauste/ þegar
Madur huggar sig og fullkomlega forlæt
ur sig uppa Guds Naad og Frelsarañ Jes
um Christum/epter hans Ordum og Fyrer
heitum/og þeirre Kyñingu sem Madur hef
ur feinged af Evangelio/um Guds Myst
un og Lausnarañ Jesum Christum / hvört
Trwnadartraust heilagur Ande verkar j Hi
artanu og Viliañum Mañsins/so vier høf
um øngva Efasemd a Guds Fyrerheitum/
med nockre Vantrw/Rom. 4. erum hell
dur sterker j Truñe/ z giefū Gude Dyrdena
vitande fullkomlega / ad hvad Gud lofar/
þad gietur hñ og þad vill hañ vissulega efn

da/ og tøkum so til vor og eignū oss Naad Guds og Fyrerheit/og Herrans Jesu Chrisiti Forþienustu/ Verdskulldā/og al a hñs Endurlausnar Velgiøruinga/ oss til gagns og gooda/og eilijfrar Saaluhialpar. So giørde sa sæle Job/þar hñ sagde/ Job. 19 Jeg veit ad miñ Endurlausnare lifer / og hier epter mun hañ upp vekia mig wr Jord uñe/etc. So giørde og S. Pall/þar hñ so skrifar Gal. 2. Pad eg life j Hollde nu/ þad life eg j Truñe Guds Sonar/sm mig heffr elskad/og wtgaf sig sialfañ fyrer mig Item/ Mier veittest Myskun/ uppa þad ad JEsus Christus audsynde a mier sierdeilis alla Polinmæde/þeim til Eptertœmis sem trwader munu verda a hans Nafn/ til eilijfs Lijfs/1. Tim. 1.

So heyrum vier nu hier/ad þad er ecke noog/ ad trua ad þ sie allt satt sem er skrifad/lofad og fyrerheited j Guds Orde/og þad sem Ritningeñ talar uñ Christum/hø ad hañ hefur lided/þetta gieta Diøflarner giørt/hellldur hlijtur hier ad vera med Forma essentialis Fidei, fullkomlegt algiørt/

stadfa? Trunadartraust j Hiartanu / so ad hvør og eirn þyrer sijna Persoonu / true stadfastlega a Gud / z sier til Eignar take Loþan og Fyrerheit um̃ eilijþa Saluhialp / j Jesu Christi Nafne / verande þullviss þar uppa / ad vier erum þvegner aþ Syndunum / heilager og Riettlater giørder. þyrer Herrans Jesu Naþn og Blood / z þyrer Anda Guds vors / og erum Guds Børn og Saluholpner / þo j Voneñe / an vorra goodra Verka / z køllum þar fyrer z seigium ABBA elskulege Fader / Aþ þui vier høþum Diørfung ad tala / og þram ad ganga þyrer Gud j þullu Trauste fyrer Trwna a Jesum Christum vorn Drottenn 1. Cor. 6. 1. Joh. 1. Rom. 8. Eph. 3.

Hier a heima þ S. Bernhardus skriþar / Necesse est primo omnium credere, qvod Remissionem Peccatorum habere non possis, nisi per Indulgentiam Dei, Sed adde & hoc, ut credas qvod per ipsum tibi Peccata condonentur. Hoc est Testimonium, qvod perhibet in Corde tuo dicens Remissa sunt tibi Peccata tua. Sic enim arbi-

nim arbitratur Apostolus gratis iustificari Hominem per Fidem. Þar liggur a / ad þu fyrst fyrer alla Hlute fram truer / ad Syndaña Fyrergiefning þær þu ecke / Nema af Naad og Myskun Guds / Eñ þetta skalltu og leggia til / ad þu truer ad Syndernar fyrergiefest þier fyrer hñ (Jesum Christum) Þetta er sa Vitnisburdur sem heilagur Ande ber og vitnar j Hiarta þijnu / seigiande / Þijnar Synder eru þier fyrergefnar. Þvi so helldur Postuliñ / ad fyrer Truna verde Madur Riettlætur / eñ ecke fyrer Þienustu Verkaña / þar fyrer seiger og eirn eñ Abachuch / sa Riettlæte af siñe Tru / hñ mun lifa. Habac. 2.

Þegar Madur hefur soddañ Tru og Traust / a Myskunar Giæsku Guds og Frelsarans Jesu Christi / þa kviknar og fædest Trueñ j Hiartanu fyrer hvøria vier snuum oss alvarlega til Guds / og verdum endurfæddder og niootande allra Christi Velgierninga / og ødlunst so eilijfa Sæluhialp af Naad og Giæsku Guds. Og þetta skiedur ecke af oss sialfum til / helldur er þ Guds

Gafpa og ecke af Verkunum/ so ad eingenn hrooje sier/Ephes. 1.

Þetta Trwnadartraust til Guds/kiemur hier af/ad heilagur Ande / ecke ad eins vijsar oss og lætur oss skynia hvad osegianlega Nad og Giæsku Gud hefur oss tilsagt og lofad/og hvad myked Christur hefur oss wtvegad/og giører þetta kroptugt og lifande j vorum Hiørtum/Helldur kiemur hn oss til ad trua og hallda fullkomlega / ad Gud er Sannordur/og er ecke so sem Mennerner /ad hn kunne osatt ad seigia/og ecke sm Mannanna Syner/ ad hann skule sdrast nockurs / ellegar tala nockud og enda pad ecke/ ella seigia nockud og giøra þad ecke.

Helldur eru Ord Drottens Sannende / og hvad hann lofar/þad verdur vissulega / Psalm. 33. Þviad hann er Almattugur / og giefur giert allt hvad hellst hann vill/Psalmenum 115. Og þyrer hønum er eckert Ord Omøgulegt/Luc. 1. Helldur kann hann ad velka og giøra yperfliootanlega/ypergnæpanlega/yper allt þad framm/sem vier kunnum ad bidia/eda skynia/Ephes. 3. Hann hefur

nödgleg Rad/ z veit vel med hvörium Hætte eda j hvada Maata hañ skal laata skie þ hañ hefur sagt og talad/ hvörsu Omögulegt og Onatturlegt sem oss þyker þad vera/ Hviad Radeñ Drottens eru dasamleg og hañ lætur þau dyrdarlega framkoma/ Esa. 28. Og j Psal. 147. stendur so/ Hans Speke hefur öngva Tölu / hans Hugsaner eru ecke eins og vorar Hugsaner/ og vorer Veiger eru ecke eins sem hũs Veiger / Hell dur so hatt sem Himeneñ er fra Jordunne/ so eru Guds Veiger hærre eñ vorer Veiger / og hans Hugsaner laangt fra vorum Hugsunum / epter þvi sem hañ sialfur vottar hia Spamañenum Es. 55.

Hier af kiemur þad / ad heilagur Ande beiger og sveiger Mañsins Hiarta med Krafte siñar Nadar / so ad þad kañ ecke annad eñ ad forlaata sig uppa Gud treysta hönum og trua hans Ordum og Fyrerheitum / eigu ande sier hans Rad og Mysteun / og alla Christi Velgiörninga / og er Viss uppa þad / med stadföstu Trunadartrauste / ad hvad Gud hefur lofad / þ ad ender hañ / þo

 þad sie

þad sie j moote Neimenum og allre Mann⸗
legre Skinseme/ og moote allre Natturu/
eda Caufis secundis/ sem Meñ kalla/ þvi⸗
ad hñ veit þad fullkomlega ad Gud er Nad
ugur og Myskunsamur/ og elskar oss sijnar
Skiepnur/ og hefr Lyst ad giera oss til goo
da/ Jerem. 32. Hañ er og sannordur/ og
vill enda þad hañ hefur lofad/ er Almatt⸗
ugur og gietur þvi giort þad/ so sem S.
Paall/ Rom. 4. skijrer oss fra Epterdæme
Abrahams/ hvørsu hañ hafe vered stadfast
ur og sterkur j Truñe/ og seiger so/ Hann
aleit ecke siñ eigenlegañ Lijkama/ sem Dæeñ
var alla reidu / þar hann var nær hundrad
Ara gamall/ og ecke helldur Lijkama Saru
z vr z dæeñ/ þviad hñ efade ecke Guds Fyr
erheit mz Vantru/ helldr var hñ stadfastr
j Truñe/ og gaf Gude Dyrdena/ og visse
fullkomlega ad hvad Gud hafde lofad/ þad
munde hañ enda.

Af þessu sem nu hefur sagt vered meig
um vier liooslega sia og læra/ hvørsu Villt
ad Papistar fara / þeir ed standa j moote
þessum Trwareñar Lærdoome / og kienna

Mønum

Mønum þad / ad þeir skule vera Efasamer
og Jhugande um̃ sijna Sæluhialp / um̃
Naad og Myskun Guds og kalla þad Of,
traust ef nockur trwer þvi / ad Gud fyrer,
giefe Syndernar / ꝛ sie Nadugur og My
skunsamur / og soddan Hrædsla og Otte se,
igia þeir ad forþiene Syndanna Fyrergiefs-
ning / hvør Lærdomur ad øngvan̄ Grundvøll
hefur j heilagre Ritningu / helldur er hann
henẽ þvert a moote / og eirn Diefuls Lær,
doomur / Þviad Truen er eitt oefanlegt
Trunadartraust til Guds Nadar og Mysk-
unar / truande fullkomlega ad han̄ munne ept
er sijnu Fyrerheite og Loforde / giefa eilyft
Lijf / fyrer Christi Saker øllum þeim Synd,
an̄a jdrast / sem adur er sagt / og liooslega
verdur auglisad med Postulans Ordũ til He-
breos / þar han̄ seiger / Hebr. 11. Truen er
Hypostasis / Þad er / ofallvallt / efblaust
Traust þess Hlutar / sem Madur vonar / og
Elenchus / þad er / ad vera oefadur um̃ þad
sem hn̄ sier ecke. Þad er ad skilia / Truen er
vissulegt Trunadartraust a þvi sem Gud
hefur lofad / þegar Madur vonar uppa þad.

stadfastlega sem hañ sier ecke/og er svo viss uppa þad svo sem hañ hefde þad alla reidu sier j Hende.

Þviad Hypostasis j þessare Grein/merk er vissulege Trunadartraust Hiartans/ sem bijdur og vænter epter þvi sem lofad er/ setr sig/ so sem full hugadur Kappe/j giegn øllu þvi sem a hañ vill striida. Þviad lijka so sem full hugadur og hraustur Holm gengu Madur/ bijdur skius Mootstandara a Vijgvellenum/ þar þeir hafa Moot med sier markad/og vonar med fullu Trauste ad hañ mune Sigureñ viña a sijnum Ovin. So setr soma Maata setr christeleg Tru sig j moote øllum sijnum Ovinum/ Arasum/ Obsoknum/Freistingum/Modtgange/ og øllum þeim sem spilla vilia og hindra Dyrd Guds og vora Saaluhialp/eñ forlætur sig stadfastlega þar uppa/ad hun mune Sigureñ faa j Christo/ og fyrer hann/ sem oss Mattuga giører/og j hvørium vier formeg igum alla Hlute/ Phil. 4. Og erum visser uppa Dyrdareñar Koronu og eilijft Lijf/ sem Gud hefur lofad oss/ sins og vier hefd

um þad

um þad alla reidu þeinged og ødlaſt.

Þad añad Orded/Elenchus/ſemi ſtendr j ſama Piſtle/þad merker þullkomlega Viſſu þegar Mañſins Hiarta veit fullkomlega/ þ heilags Anda Nad og Jñblaaſtur/og Vit nisburd gudlegs Ords/ ad hans. Ord og Fyrerheit ſtanda ſtødug/ſo ad Madur heþur alls øngva Eþaſemd a þvi ſem Gud heþur talad og loþad/eñ þo hañ ſiae þad ecke þyrer ſijnum Augum. Sodda ñ viſſa Von ſkriþar Poſtuleñ/ad Noe haþe haþt/þegar hañ þyrer Truna gaf Gude Dyrdena og ſmijdade Aurkena/ſijnu Huuſe til Hialp rædis/þa hañ vard aaminntur aþ Gude um þ ſem hañ gat ecke ſied/Heb. II. I. Moſ. 6. Þad er ad ſkilia/ hañ trude Gude og efade ecke hans Ord um Vatnsflooded ſem koma ſkyllde epter Hundrad og tuttugu Aar/Hañ eþade ecke helldur Guds Nad og Myſkun til ſijn og ſiña/og viſſe fullkomlega ad hañ munde j Aurkeñe og þyrer Aurkena verda frelſadur ſialþur aattunde / Hier uppa for liet hñ ſig/ og giørde allt epter Guds Skip an/eñ þo hñ ſæe ecke þ Auguñ þ Gud hafde hm loſad.

Þetta hid sama/ ad Truen sie ecke eins-
somul Sagna Tru/meingud med Ogudleg-
re Efasemd/ um Rad Guds og Fyrergief-
ning Syndana/svo sem Papistar hallda/
helldur vijst Trunadartraust Hiartans/sem
nu hefur sagt vered/þad kiena oss og eirnen
Ord Esaiæ Spamans/þar han so seiger/
J 26. Læted upp Porten/so þar inngange
þad Rietlæta Foolked sem Truna vard-
veiter. Þu helldur jafnlegan Frid/ept-
er sañarlegu Fyrerheite / þvi Men treysta a
þig. Þær fyrer treysted uppa Drotten eilijf-
lega/þt Gud Drotten er eitt eilijft Biarg.

Hier rofmælar Spamadurenn Truna m$\bar{z}$
fioosum Ordum og seiger/Ad hun sie ofall
vollt Nurun og stødugt Trunadartraust
til Guds/ sem forlætur sig uppa hn̄s Ord
og Fyrerheit/ og ad han hallde jafnlegan
Frid/Þad er ad skilia/han sie jafnan Rad
ugur og Myskunsamur/Vingiarnlegur/
þrætte ecke alla Tijma/og sie ecke æfenlega
Reidur/Psalm. 103. Hann sie og eilijft
Biarg/þad er/Eilijfur Sannleikur/ sem
helldur Ord og Fyrerheit svo fastlega / ad

omøgulegt

omøgulegt er þad þau bregdest / helldur blijf-
ka eilijfflega stødug / so sem stadfast Biarg /
eda Klettr / Ps. 103. Sem z eirnen̄ Christr
talar / þar hn̄ seiger / Luc. 17. Ad Himen z
Jørd skule forganga / en̄ sijn Ord skule ecke
forganga. Og j ødrū Stad seiger
hn̄ / ad a þz̄u Klett eda Biarge vilie hn̄
uppbyggia sijna Christne / z Porten̄ Helvijt
aña skule hana ecke yfervuga / Matth. 16.

Hia S. Pale Rom. 4. kallast z eirn
en TRVEN j Grisku Male / Plerophoe-
ria / Þad Ord merker fulla Ferd / fullann
Gang / ad lijka svo sem eitt Skip fer med
fullum Seglum sijna Leid / þo ad Barur
og Bylgiur slae uppa þad a allar Sijdur /
þa blijfur þad stødugt / og lætur ecke reka
sig af riettre Leid. J sama Mata og ei-
ns / giører Truen / hun blijfur stødug og stad
føst vid Guds Ord og Fyrerheit / hvad sem
uppa fellur og ageingur / og lætur engra
Neyd / ongvan̄ Mootgāg hindra eda frirta
sier þar fra / hun geingur þar j gieqnum /
og forlætur sig uppa Gud so sem Matig
an̄ og milldan̄ Fødur / og a sin̄ Armkæls-

